Goder kristner brædur þesse vor kæra syster er nu i dag hier komen til kirkiu dyra epter sinn barnburd þui vilium vær aller þacka Gudi þyrer hana/ at hēne hepur vel geingit med auoxt sins kuidar/ þui vilium vær aller aa kne þalla/ ok bidia þyrer henne eina pater noster/ suo hun meige med tyktan vpþæda sin born i Guds otta/ ok heidran ok suo þyrer ollum odrum dandi kuinnum/ sem þungadar eru/ hier edur annarstadar i sueitum/ at Gud vilie ꝛ suo geþa þeim sina nad til at skiliazt vel þra sinum auexti/ ok sidan þoruara han þyrer elldi ꝛ vatni ꝛ ollum liþshaska/ suo þær komi icki i haska þyrer liþ ꝛ sal þyrer sin born/
Fader vor etc.

Þar epter seige han til hennar/ þa hun er in leidd.

Min kære syster/ kom nu inn aptur i kristiliga samkomu/ til at þullgiora þat sem kristinne kuinnu ber at giora hier innan

Kirkiu / vor Drottinn Jhesus syne þier si-
na myskunn / þinum manne / ok bornum /
ok ollum þeim sem Gud ottazt at eiliþu.
Amen.

Lausa konur ꝗ allar þær sem orad-
uandar eru / skal presturenn ecki i Kirkiu lei-
da / þui at Dioþullen leider þær i
sina Kirkiu / þar til þær be-
tra sig / ok mismunan a at
vera i milli raduandra /
ok oraduanda.

Finis



# Hier epter fylger/ ad vitia siukra/ hid Einfalldligazsta / ok þa presturinn kemur til hans Seigi hann Suo/



**Nad ok Fridur vors herra Jhesu Christi/ sie med pier. Amen.**

Þv kære

Kære broder / eda / syster / Saker þess ad vær aller suo sem hlydner / þionar ok god baurn / al latima / bæ- di i heilsu / ok kranckleika / skulum setia vorn vilia i Gudz vilia vors himneska

Faudurs sem skapad hefur Himen ꝫ Iord oss til goda / han hefur ꝫ sent son sinn oss til lausnar / han hefur og lofat oss (ef vær erum i Trune) eyliifu lifi ꝫ riki hi- manna / han vtuegar oss hreinleika / og oll skickanligheit suo vær sierdeilis aa vitiu- nar timanum. i aungum hotum i opolin- mædi / setium oss i moti haunum / þui fy- rst vær haufum mikid gott / af Gudi þei- git / suo ad han hefur oss ecki golldit epter for þienan vora synda / helldur vaktar han oss faudurliga til yferbotarenar / þui skulu vær da ecki bera nockurn part / kroß- sens / ꝫ motlætisens / þar sem vær hauf- um miklu þyngra for þienad / ef han vill- di oss / suo sem synduga streingiliga vrskur-

da,

da/ eda þui viliũ vier/ecki med allre a-
lud/ miukleti/ ⁊ vndergefni/ hans viliã
liufliga med taka/ ⁊ gefa oss atskilia þar
med/ ad vier verdum ecki fundner/o þa-
cklater/ þar sem ad Kristur Gudzsonn/
hefur druckit fyrer oss Kaleik beiskleikans
piningarennar og Daudans þar fyrer kæ-
ri N. vertu hraustur/ ⁊ traustur/ i Guds
myskunsemi/ og suo sem vær ættum/ all-
tid at vera vakandi ⁊ reidubuner fund-
ner/ og vauktudum nær han kæmi suo
vær mættum med enu visu Jungfrunum
moti haunum ganga/ ⁊ ecki ouilianliger/
eda oskickanliger vera / Vær erum i þess-
ari eymd pylagrimar/ og ecki annars enn
vtlender hafande hier aunguan stad nie
veru / En vort faudurland / og heim-
kynne er i himeriki/ til huers/ ad vær me-
ir nalgunst/ og æ þess meir/ sem vier fi-
nnum oss veikare i likamanum/ þess hell-
dur er til bæriligt / ad vær til reidum oss/
skickum/ og fyrer skipum ollum hlutum/
Og nu kære N. ef þat kan nockut fun-
galigt ad

galigt ad lyggia i þinne samuisku sem þu vilier mier sagt hafa/ þa mattu nu þat vel giora/ Sidan vilium vier huer med audrum til Guds kalla og hallda epter kristeligri skickan.

Gangi þolckit i burtu/ ꝛ kallizt aptur eptur Jatningina.

Nu til þess ad vær kaullum þess aludligar til Gudz þa skulum vær adur voꝛar skullder med kenna.

HEyr almattugur Gud/ ok himneskur Fader/ vier aumer ꝛ afskapliga synduger menn/ med kennunst/ ad vier haufum syndgazt/ fra barnæsku/ allt

allt til þessarar stundar/ J moti þinum bodordum/ J vondum hugreñingũ/ ordũ/ vilia/ ok verki/ sem vær getũ med aungu moti reiknat/ þar fyrer erum vær ecki makliger ad vera nefnd þin baurn eda vpp lypta vorum augum til himnanna/ O miñ Gud og Fader/ vær villdum alldri þig nu reitt haffa/ bidiande erum vær þig/ fyrer saker þinnar myskunnsemi og heidurs naffns þins/

þings/ ad med fyrer geffn-
ing vora ſynda vilier þu
oſſ og i nadiñe med taka.

Afflauſnin.

ALlz mectugur Gud
og himneſkur Fad-
er/ han myſkuñe oſſ
ſa er heffur ſent ſin Son
i þeſſa veraulld til panta
huer ad forn færdur vart
ſem ſaklauſt lamb fyrer
vorar ſynder/ og nægelſi
giordi fyrer þær/ a huern
eff ad vær Truum/ þa ver-
dum vær med ſpilluirkia-
num

num a krossenum audlandist bædi firergeffning syndana og suo ingongu til lifssens J suodan tru seige ek þig (Kære broder edur syster) ok alla þa hier eru i sannre tru/aff krapti gudligrar loffanar/ lausann & lidugañ aff ollum syndum/ J naffni ffaudur ok Sonar/ok heilags anda/ Amen.

## Bidiũ nu aller ffader vor.

Minn Gud giordu holpinn þion þinn/ þan til þin hopar/ Sent þu hau-

num

num hialpe aþ þinum helgi dom / ok aþ
Syon giordu hann holpin / Drottinn siettu
haunum kastali styrktar / i þra asionu /
ouinnarins / Dorttinn heyr þu bæn mina
ok akall mitt komi til þin.

Latum oss bidia.

ALmattugur eylifur G-
ud þu sem leingder liff
daga þions þins Ezechie
Kõgs vm xv.ar/vær bidi-
um þig audmiukliga/ad
þu villder med þeire sau-
inu þiñe maktar hendi he-
ilsu liena þessum þion þi-
num/þier til heidurs eff-
ter þui sem þier vel þok-
nazt

nazt/fyrer Christum vorn Drottinn Amen.

Sydan lati presturinn vpp nockut bord og leggi hreinan duk þar vppaa eda suo sem han kan/ þui þa best ap sted ad komma/ lati vin i Kaleik/ Braud aa pattnu/ setie vpp vax lios/ Snuist sydan til folksins ok seigi/

Vor Drottinn Jhesus Christus seiger suo sialfur/ ad huat tueir eda þrir eru saman komner i minu nafni/ þar em eg mitt aa milli þeirra/ og huad sem vær bidium i hans nafni/ þat faum vær vissuliga/ Enn saker þess ad vær erum hier nu i nafni Drottins/ til samans komner ad hallda a minning vm hans nattuerd þa skulu vær i nafni Guds/ gefa vorum siuka Brodur/ eda systur/ Guds heilagt Sacramentum/ sem nu kan ecki ad komazt med oss til kirkiunar samkomu

Lesi þa hatt eda syngi i modur malt Truna/ og Fader vor/

Sidan taki Patinuna vpp/ med Braudinu/ og syngi edur segi helgunar ordin.

# Vor Herra Jhesus Christus ɾc.

Gefi þeim eninn siuka ok segi.

# Likami vors Herra Jhesu Christi/ biuare þina sal til eilifs lifs.

take Kaleikenn og segi.

# Saumuleidis epter ɾc.

Gefi sidan þeim enn siuka segiandi.

Blod

# Blod vors Herra Jhesu Christi beuari þina sal til eylifs lifs.

Epter þetta seigt Prestarinn.

NV minn kæri N. þu heþur þig nu byuisad Kristiligan brodur / og ert nu einn limur Christz likama þat þyrer vertu nu aminnugur / ad huer sem med Trune verdur inplantadur Christe ( ad þo han deye / þa ma Dauden haunum ecki leingi hallda / helldur mun han vpprisa a Doms deigi. ecki til daudligs liþs / helldur til æuerligs liþs / og mun sia Gud andlit i andlit samteingdur einglunum / og vt voldum heilaugum Guds / J þessare von styrk hiarta þitt / Og set þinn anda / og vilia til Gudz vilia sem skapad heþur / Himen og

 Jord

Jord af aungu efni / Han mun og man-
nin / huern han hefur skapad epter sinne
Likneskiu og liking / og hans Sonur he-
fur leyst / ecki forlata / Suo han for-
diarfist eyliflliga / Hug leittu enn nadar
fullu fyrerheit / sem enn fanlelks fulla-
zte Gud hefur suo marg falldliga lof-
ad fyrer spamennina og Postulana / Ein-
kanliga ad þeir sem Trua a Christum er
lofad himna riki / Hierdeilis lattu þier e-
cki vr minni falla / huersu beiskan / had-
ugligan / harmkuala fullan dauda / ad
Kristur hefur þolad fyrer oss / Og bid af
hiartans grund ad sodan hans kroftuga-
sta / ok nægdar fullasta forþienan ver-
di sett J milli þinnar salar / og hans ret-
lætis J þinne framfaur / og suo al þin-
gis. Tru þu ad han hafi nogsamliga fy-
rer þig þolad / og med sinne forþienan /
þier til reitt hia Gudi heim kynne eylifs
lifs lios og gledi / Christur hinn kross-
festi sie þier nogligur auruggleiki allra
þessara lofana.

Signing

# Signingen.

GUd Drottinn styrcki þig i lifi og salu / og lieni þier karlmannliga ad strida a moti ollum a soknum/og ad vera haurku fullann og staudugan i Trune/ Drottinn sie med þier / og blezi dig/og verndi þig fyrer ollu vondu/og vppfylli þig allre gæsku ad eylifu Amen/

Fridur Drottens sie med þier Amen.

F iij Eny

Enn þa er brad naudsyn krefur / ef
hinn siuke er langt kominn / þa lese fyrer
honum / fader vor / Truna / og hellg-
anar orden og suoddan a minning sem hañ
sier at hinn siuke getur epter bedit / vegna
hans krankleika / og þionuzte hann strax
sidan og bifale hann suo Gudi i valld.

Þa er Lik kemur til Kirkiu / sie
þat inn borit epter venniu / og sie
hringt / ei fyrer Enum dauda /
helldur ad vpp vekia enu lifan-
di Lesi þa Presturinn þessa Sermona sem
hier epter eru Skrifader. Huern sem til
heyrer þa likit er nidur sett / Enn ef o-
gæft er vti / þa kalle Þienaren Folkit
i Kirkiu e Predicke þar / Enn a medan
likit er borit til grafarennar ma Þienaren
lesa Psalmen / Af diupri hrygd ect.
Ok / Nu bid ek Gud þu nader mig ect.
ok / Huer sem lifer J heime hier ect.
sem epter a standa.

Nokar

# Nokrar Predikaner sem mann ma hafa nær Lik eru graffin/ sem eru Predikadar af Doctor Petro Palladio.

## Fyrsta Predikan sem man skal hafa yffer nockurum lærdum.

MAnn skal fyrst þacka þeim sem Likid hefur fært til grafarinnar/ med þessum edur þuilikum ordum.

SAker þess miner Kristiliger viner. at þier hafit hingad giort ydur omak / ad fylgia þessa manz like til

ſins hulldar ſtadar / i hueriu Þier hafit
vitit haunum enu ſeinuztu Þionuztu ſem
Þier kunnid haunum byuiſa i Þeſſum hei-
me / Þui hiedan i fraa hefur han ecki y-
dar Þionuztu Þorf / med hueriu Þier ha-
fit audſynt ydvar tru til Gudz / og kær-
leika til ydar naunga / fyrer huerja vel
giorninga ad Þeſſa manz nandar menn /
frændur og viner / aller oc huer ſierdeilis
ſeigia ydur kærliga Þacker / viliandi giar-
na ydur hier fyrer giora ſuo mikit til Þi-
enuztu i Þui ſem Þier vilied / Þeim til ſei-
gia.

I annan mata ſkal Preſturinn
framſeigia vm lyferni Þeſſ ſem grafinn
er huerſu han ſier ſkickad hefur i ſinum
barndom i ſinu embætti i huerri hellzt ſtiett
ſem han var til kalladur / Og gefa haun-
um Þan vitniſburd ſem han kann med go-
dri ſamuitſku / og endi Þat ſuo ſeigandi.

Saker Þeſſ miner kriſtiliger viner /
Þier kunnum gefa Þeſſum vorum brod-
ur /

ur / ( Edur systur ) med sannindum / go-
dan vitnisbyrd / bædi i sinne Tru / og
lifnadi / i Trune / af Þui han hefur
med kent Jhesum Christum sim Salu-
hialpara alleinazta / ok Þessa sina Tru /
styrckua og staduga giort i med tekningu
heilags Sacramentis / Christi Likama og
Blodz. Huat fyrer vonanda er ad han he-
fur stadugur stadit allt til sins Dauda
dags / og suo lika ad hans lifnadur mu-
ne verit hafa / Ostrafanligur / Þui vilium
vier han Gudi byfala / Treistandi ad han
med oss / og vier / med haunum / munum
aa sydazta deigi aller vpprysa til eilifra fa-
gnada Amen Amen.

Enn af Þui ad vier vonum ad han
hafi medtekit sina saluhialp / ok Þurfi nu
ecki meira med / vorra hringinga / Saun-
gua / lesninga / edur Predikana / Þui vil
eg taka oss til traustz sem nu hier lifum /
Þessi S. Pals ord. Col / iii. Erud Þier
nu vpp aptur rysner med Kriste / Þa leitid

Þess huad þar vppi er/ Þar er Kristur si-
tur til Guds hægri handar/ kostgæfit ep-
ter þui/ huad þar vppi er/ og eigi epter
þui sem a Jordu er/ þui ad þier erud-
dauder/ og ydar lif er folgit med Christo
i Gudi/ Enn nær Kristur ydart lif mun
sig openbera/ Þa munu þier eirnen open-
berader verda i dyrdinne/ Hier vilium vi-
er vmskoda S. Pals mening/ og vita hu-
ad hun samhliodar vid mening þessa mans
ad vier mættum med gaumgæfni þess hat-
tar monnum epter fylgia i staudugri tru/
sierdeilis i Daudans timanum/ og alltyd
suo mikit sem mauguligt er/ þui ad/ hu-
er af hiarta hugsar vm himneska hluti/
han kan hægliga ad forlata þessa vera-
lld/ og han girnizt alleina sina himneska
eylifa faudur leyfd/ med gladværri sam-
visku/ sem ad skylldi han sam stundis vpp
fliuga til himens/ huar af vier kunnum
vel merckia huerssu Sæler þeir eru sem
Gud vilia ottazt/

Fyrst af þui ad þeir eru i samfie-
lagskap/

lagskap/ heilagra Gudz eingla/ og ble-
szadra andra.

Þad annad/ ad þeir sia Gudz velldi ok dyrd ok þeckie han fullkomliga.

Þridia/ ad þeir glediazt af fagnudi sinna heilagra stallbrædra.

Fiorda/ ad þeir vm hugsa þann mykla kiærleika sem þeir hafa til sier huers/ og suo Gud til þra og þeir til Gudz. Þui at i himeriki er allur fagnudur/ sætleiki gladuærd/ lysting/ fegurd/ kyrleikt/ klarleiki lofdyrd/ allra manna þecking/ rickdomur/ kræsingar/ gott samþycki/ tryggleiki ꝛc. Þui huad ma þar vanta sem Gud sialfur er/ huern ecki neitt vantar/ allt huad þar er/ þat er allt Gudligt og heilagt/ sem er/ skilningur fyrer vtan mædi/ kærleiki fyrer vtan leida/ Þess meira sem madurinn sier þar/ Þess meira girnizt han ad sia. Þess meira sem madur elskar/ þess meir girnizt han ad elska ꝛc. Þar verdur man fullur af Gudi/ Þui

er han

er han ſæll/ Þar verdur man fullur af
bleſzan/ Þui er han bleſzadur/ Þar verd-
ur man fullur af helgan/ þui er han o-
fyrer faranligur. O huerſu ſæl er ſu ſyn
med huerri man ſier Kong Einglanna i ſine
dyrgd /Þar ſuo er ſkrifad fagnid þier og
verit glader / ſem erut riettlater i Gudi/
Siait þan ſem þier hafit elſkat / Hafit
nu þan ſem þier hafit leingi girnzt /Hall-
dit nu þeim ſem þier kunnit alldri miſſa/
Þar fyrer ſyngit gledilliga ſaungua / og lo-
fit han / Þui at han er Herran ydar Gud
Dyrdar fullur/ i huerium ad er/lif /hei-
dur/ Dyrd/ Fridur/og aller Goder hlut-
er /O huilikur fridur munne þar vera ſem
einginn giorir o frid /þui at þat ſem Gud
er/ þat er eylif veran fyrer vtan enda /
Eylif kunnatta fyrer vtan villu / Eylif
gledi fyrer vtann ſorg / Eylif elſka fyrer
vtann ſtygd / þui er þat ecki vndarligt ad
þa enu Gud hræddu ſem þetta gaum gæ-
fa / langi til himneſkra godra hluta / ok
hugſi vm þat eylifa lif Suo ſem vonandi
er/

er/ad þessi madur hafi giort/huers likama
vier haufum nu hier grafit/þetta maa oss
vera sagt til lærdoms/ad vier kunnum i
sannri idran/ok orugri tru/reida oss til dau-
dans/Ok verda sydan epter daudan Gudz
baurn/ok sem Paulus seiger/Erfingiar/
Ja vors Herra Jhesu Christi sam arfar
til allra Gudz audæfa og eilifs lifs/hier
vm vilium vier aller sãan bydia Gud/fy-
rer hans einka son Jhesum Christum vorn
Herra med kne falli ok seigium/Fader
vor ɀc.

Nu sem þetta er vt lesit ma prestu-
rinn syngia med folkinu eirn Psalm/
edur eitt vers/af þeim Psalmu
m sem þar eru til setter.

þorlakur aeg under skrifa
med xijellu n en eingen annar

Annar formale sem man ma hafa yfer þeim sem hafft hafa nockura valldz skiorn /
D: P: P:

## Textus Psalm Lxxiii

Enn eg bliff þo iafnan hia þier / þui ad þu vpp helldur mier med mina hægri haund.

Þu leider mig epter þinu radi / ok medtekur mig / med ed sydzta med heidur /

dur /

Nær eg alleinazta hefdi
þig þa hirdi eg ecki vm hi=
men nie Jord ?
þo ad bædi lif mitt og ſal
ſie hialpar lauſt þa ert þu
þo Gud alltid mitt hiar=
tans trauſt og min hlut
deilld.

þui ſia / þeir ſem vikia
ffra þeir ſkulu fyrer far=
azt þu eydi leggur alla þa
ſem giora hordom i moti
þier.

Eñ þat er min gledi ad
eg helld

eg helld mig til þin miñ Gud og set mina von til Drottins Gudz mins / ad eg meigi kunngiora allar þinar giordir.

Fyrst sie þackar giord til folckzens sem fyr seiger.

HIer haufum vier first ad merckia huorsu miken skada allt vort Land fær i þessa edur huilikra mana fra falle huern skada þeir skilia eckt sem fafroder eru helldur alleina þeir sem forsokter og skiluitser eru ect. Þuiad lika sem i anlegri stiornan verda vel lærder Og Gud hrædder kennimenn kallader kristnenar lios / þuiad þeir eru heilags anda verckfære / upp lysandi Kristnena med heilaugu Guds ordi / lika suo eru haufdingar



dingar Og valldstiornar menn. sem J sinu embætte med gaumgæfni gudi þiona lios werelldlegs walldz enn þegar þessi lios slaukna þa geingur almugen i myrckre Mandrapa / þiofnadar / hordoma / og anara þuilikra skemdar verka.

Huar firer ad syrgianda er þuilikra mana af gangur ecki ad eins af frændum Og winnum helldur af aullum almuga þui þeir hafa aullum þionad J sine wa- lldstiorn. Til dæmis ad taka/ Ad ecki ad eins Josep helldur allur lydur Egypta Landz syrgdi frafall Jachobs fodur Jo- seps.


Jer væri nu nog ad tala my- ner kristeleget viner vm þessa Mans lifnad og embætte En af þui ad þat huortueggia er ydur kunnigt/ vil eg ecki þar vm morg ord hafa/ þui at huerssu froma forells- dra sem þessi mann hafdi.

Jtem huorsu kristiliga han var af þeim vpp fæddur.

Item huad han hafdizt ad i sinum vngdomi. Sydan hueria / hegdan han hefur hapt met sina kuinnu og baurn Suo og i sinu embætti / fyrst i litlu. og af þui ad han vard trur funden i þui enu litla / Þa vor hann skyckadur til stærra embættis i hueriu hann kunne sydan / almuganum meira gagn giora / Er þeim aullum kunnigt sem til alldurs eru komner / og til hans vissu / Og þat han vel vppbyriadi i sinum vngdomi / hefur han enn betra framhalldit i sinum alldri / og allra bezt fullkomnad vpp aa sinn sidazta tima Þui at einginn madur kunni fullkomliga suo hreinn ad vera i þessari verolld / ad ei finnizt nockut straffanligt met / þo ef madur helldur truna til Gudz / kærleicka til sinna naunga / og goda samuisku / hia sialfum sier / og blifur þar i staudugur / allt til endans / þa er þat af Gudi fyrer gefit og a ecki af monnum til lyta ad leggiazt / þat fyrer kære viner / ad þessi vor kristin broder / Huers likama vier hofum

Nu

Nu her nidur lagt / hefur sinn lifnad / suo
framleidt i trunne til Gudz / og godt vm
geingni vid sina Naunga / og hefur þar i
staudugur verit allt til endans / til huerrar
Truar styrckingar / han hefur med tekit /
Þat verduga Sacramentum Christi likama
og Blod / sier til eins auruggs panta / og
vissrar stadfestu / eilifrar salu hialpar Suo
ad hann er anefat i Gudz riki / hia ol-
lum Gudz vt vauldum heylaugum / Þut vi-
lium vier han Gudi byfala / og koma suo
aptur til vors lærdoms og huggunar / þut
at þessi kristi strydz man / hefur ecki all-
einazta stritt sier til goda / heldur aullum oss
til eins epter dæmis og sionar glers / ad vier
kunnum læra Gudz siduana huersu vnd-
arliga og truliga han hegdar vid sina vt va-
lda / fyrst med ordum Sydan met kross og
motgangt sem kallazt hier i Psalminum
ad hallda Þeirra hægri haund / eda at lei-
da þa aa riettan veg til eylifs lyfs / lika
suo sem godur truar veguissare / leider an-
nan aa riettan veg.

Suo hielt Gud Adams hægri hand og visade honum veg þyrer ed blessada kuinnar sæde og þirer krossin / i sueita þinnar a stonu skalltu þinar þædu neita æci.

Suo leiddi han og Noa þirer ordit og krossinn / þa han plagadi Verolldina med vatz flodinu.

Suo hiellt hann Abrahams hægri haund þa han leiddi hann aþ Vr i Kaldia Lande inn i Canaans land og Egypta Land.

Suo leiddi han Lot þirer sin Eingil aþ Sodoma / Þat gamla Testamentum er fullt aþ soddann epter dæmum / og i enu Nya Testamenti.

Suo og hiellt han sancte Pals hægri haund hia Damasko og leidde hann epter sinu rade:

Suo hiellt hann og þessa mans og allra vtualdra / hægri haund / og dregur þa med ser til eylifþs lyfþs / þirer ordit / kross / og motgang / Þui ad hann vill i aungvan

mata ad

mata ad þeir fyrerfarist sem aa hann trua
helldur vill han þa med taka i eilifa dyrd
til syn.

Þessi er Gudz vndarligur siduant i sinum vt voldum/ Þar epter fylger hlydni vid Gud/ huer ad skyn/ i Trune/ med kenningu/ kiærleika &c.

Truarinnar raust er þessi.

## Enn eg bliff þo iaffnan hia þier.

Eg fyrer læt þessa verolld med aullum sinum hegoma/ og ranglæti/ og helld mig fast til þin sem ert minn veguisare/

Med kenningar raust er þessi.

## Nær eg alleinazta heffi þig þa hirdi eg ecki vm himē- nie Jord.

(Þat er) Huorki heilaga aa himnum/ nie

min verk aa Jordunne / vil eg setia þina augsyn þyrer minar synder / helldur þig alleina Jesum Christum minn lausnara.

Þolinmædinnar rauſt er þessi.

# Þo at badi liiff mitt og Sal / sie hialpar lauſt / þa ert þu alltiid minn Gud / og huggare mins hiarta og minn Gud.

(Þat er) Aþ þui herra em eg þinn / geþ eg þier makt yþer ollu þui eg aa / þui ek aa þig ect. þat þyrer þar þu med mig hart eda miukt / epter þui sem þu sier mier gagnligt / gior vid mig sem þu giorder vid heilaga Job / eþ þier likar suo alleina þor suara þu þinn-riett sem þu heþur geþit mier mot syndunum / þui at þu ert þat Gudz Lamb sem burt tokzt allar veroll-

darinnar

darinnar syndar / i mot daudanum / Þui
þu af Daudanum vpp reyst / i mot an-
skotanum / huere haufud þu i sundur ma-
der / Hallt fast minne hægri haund / og
aud syn þina makt / þinn visdom / og þin
kiærleika vid mig / Þina Makt / med
huert þu kant ad leida mig / og vardueita
Þinn Visdom / med huerium þu skapader /
og stiornader mier og ollum hlutum / þin
Kiærleika / med huerium þu villt þat gio-
ra sem oss er gagnligt / þu ert hirderenn /
en eg em rafandi saudur / þu att / ad lei-
da mig a riettan veg / en eg aa ad vera þi-
er hlydinn / og heyra þina raust / ad ein-
glar aller kynne ad sam glediazt / Þui þu
hefur fært mig til þins sauda hus /
Þu hefur skapad mig af aungu / þo ecki
til einkis / þui lat mig fullkonna / þat
sem eg er skaptur til / sem er ad prisa / lo-
fa / og heydra þig ad eylyfu.

Ef eg væri med aullu / o gudligur /
og for hatnadur / og ef mitt hiartta væri

hardara enn steirn/ þa kant þu/ þo ad giora þad miukt aptur / ta miukara enn nockurt vax / og leida mig aptur aa riettan veg/ þui eigu vier ecki ad mistreystatz/ helldur ad med kenna vorar synder/og flyia til Gudz myskunnar/ fyrer Jhesum Christum / huerium aller spamenn bera vitnysburd/ad þeir faae sinna synda fyrer gefning: Suo marger sem trua a hans nafn/ Suo vonum vier ad þessi vor kristinn broder hafi sinna synda fyrergefning/ af þui han trudi aa hans nafn/ slikt ed sama veiti og gefi oss aullum saman Gud Fader / fyrer Jhesum Christū sinn einka son vorn Herra amen:

Hier ma bidia og syngia sem fyr seiger.

Finis.

En

# Enn þridia Predikan sem mann ma hafa yfer nockrum fullalldra mañe predikad aff D. P. P.

Fyrst skal giora þackar giord til Folk-sins og gefa þeim hinnum fram farna/ Einn godann vitnis byrd J Drottni.

## þui at þeir eru sæler sem deyia i Drottin/ i Johannes openbering xiiii.

## Psalm.

## Dyrdligur er daudi heilagra i aa syn Drottins.

EN ad Þessi vor godi broder sie i drottni sofnadur / bijuisazt i þui ad þeir reiknazt deyia i Drottne / sem ad goder eru / ( þat er ) huerier ad Trua aa Gudz Son og truer sig ad hafa lyksaman daudur / fyrer hans Son Christum vorn medalgangara / Huiliker seigiazt / og eru goder / huer godi ad er af helgum Anda / Actor: xi. Þar star vm Barnaba ad han var godur / fullur af heilaugum Anda / og riettre Tru. J sama mata seigiazt þeir trulyndu goder hia þeim vondu / sem eru o millder / og vantruader af Gudz godre til reiknan / þui at i sialfum-sier er einginn godur / vtan alleina sialfur Gud.

Af þui at aller Jafn vell himu beztu / eru vpp runa syndinne vndergefner / og med maurgum vondum girndum / og lytum fleckader / þo aungu ad sydur eru þeir goder / sem J Gudi lifa / J Gudi deyia / ok eru sæler i Drottni ꝛc.

Suo vor

Suo var og þessi godi mann / huers Likama vier hofum nu hier grafid Og huers sal ad vier vonum vera hia Drottni.

Fyrst var han / vel Latinn i sinne suett / og kom sier vel vid sina kunninga / Suo han hefur godan vitnisburd / af þesim er han þeckta / Enn af þui ad hann hefur sina salu hialp af Gudi med tekit vilium vier sem epter lifum taka oss til huggunar þessi S. Pals ord / sem han skrifar til Tessalo: i fyrra brefi / og iiii. Capitula.

EN vier vilium ( Kære brædur ) ecki dylia fyrer ydur / þeim sem sofa vppaa þ þier sieñd eigi hrigguer / sem adrer er aungua von hafa / þui fyst vier vitum

tum þat Jhesus er daaen
ok vpp aptur risenn/ Suo
mun Gud og eirnẽ þa sem
sofnader eru / fyrer Jhe-
sum med honum framlei-
da/ þui seigium vier ydur/
suo sem ord Drottins / ꝥ
vier huerier ed lifum / ok
yfer blifũ i til komu Drot-
tins/ þat vier munum eigi
fyrer þeim koma sem sofa/
þui ad drottin sialfur num
med heropi/ ok haufud ein
gelsins raust/ ok Gudz lu-
dri ofan koma af himnum

og

og hiner daudu i Christo
munu fyrst / vpp aptur ry-
sa / og epter aa vier / þeir
vier lifum / og yfer blyfum
verdum til lyka vpp num-
ner med þeim sounum J
skyin til motz vid Drot-
tinn i loptid / og munum
suo hia Drottni vera alla
tima.

J þessum ordum hugsualar hinn hei-
lagi Pall / þa sem syrgia eínu daudu / eda
daudann ottazt / med tiu hattum /

Fyrst þui at daudi Gud hrædda er
fyrer Gudi hægur og sætur suefn Actor.
vii / Stephanus sofnadi i Drottni ) Suo
ad þeir kunne med einu Christi ordi / af
þeim

þeim suefni vpp veckiazt/ Job. v. Og Christus sagdi/ Gratid ecki Stulkan er ecki daud: Math/ ix. Oc Pall kallar dauda Gud hrædda suefn/ i/ Tessa/ iiii/ Þui at þeir sofa i Kristi/ sem eirn Brudgume i fadmi sinnar brudar/ ok sem eitt barn er liggur a brioste sinnar modur/

J annari grein huggar han oss J Kristi vpp risu/ seigiandi/ Þui fyrst vier vitum þat Jhesus er dainn/ og vpp aptur risenn/ Suo mun Gud og eirnen þa sem sofnader eru fyrer Jhesum med haunum fram leida/ Item seiger/ S. Pall til/ Rom. vi. vitid þier eigi ad aller vier sem skirder eru i Jhesu Christo/ þ vier erum i hans dauda skirder/ þui erum vier og lika med haunum greptader fyrer skirnena i daudann/ vpp aa þ/ lika sem Kristur er vpp vakinn af dauda fyrer dyrd faudursins/ lika suo Skulum vier ganga i Nyiungu lifdaganna. Þui fyrst vier verdum haunum sam plantader

J epter

i epter likianlegum dauda / Suo verdum vier haunum og liker i vpp risune/

J þridiu grein huggar han oss med vpp risu hætti þramlidenna/ þui hann seiger ad þeir sem dauder eru i Christo / Skulu fyrst vpp risa/ Sidan vier sem lifum og yfer blyfum verdum til lyka vpp numner med þeim saumum i Skyin / til motz vid Drottinn i loptid.

J fiordu grein huggar han oss med eilyfu lifue/ J huertiu eilifu lijfe vier skulum æ iafnan lifa hia Gudi sem Christus og seiger / Johan: iii. Nær ad Christur mun sig opinbera/ munum vier vera haunum liiker / og sia hann sem hann er. Amen.

Finis

Ater ma enda sem fyr seiger

# Fiorda predikan sem mañ ma predika yfer huerium sem vil / predicat af D: P: P:

Fyrst vpp byrte hann med þackar giord till Folksins. og lofligann vitnis burd vm þann Framlidna sem fyr seiger.

## Textus Eccle: ix.

EInginn mann veit syna enda liigt / suo sem Fiskarner verda tekner med aunglenum og Fuglarner met nettum Suo verda mennirner og tecknir a Daudans tima / þui at hann kiemur hastarlega ad maunnunum ouitandi.

Hier i þessum texta kennir Ecclesiastes oss tuenna mercktliga hlutti.

Fyrst ad daudinn er vis / Enn time daudans

ire daudans o viis / þad bytuisar han med tuennur epter likingum / Um þat fyrsta vitum vier / af Gudz til settu radi / ad vier eigum ad deyia / huat og huenær ad daudinn kemur. huort helldur þad er vti edur inne / aa sio edur landi / sem Eccle: seiger framdeilis xi. cap / Huort helldur ad tried fellur i sudur edur nordur. þar liggur þad / Og þa re þat vyst ad þat hlyter ad falla / Enn huar hellzt / edur huenær / þad er o vist / Suo er þad og med oss / þat fyrer liggur oss magt vpp aa / ad vier lifum suo hier i heime / ad vier ecki ottunzt daudann. Enn vor heimska og galeysi er suo micked / ad Daudinn fynnur oss alltyd vanbuna / vier seigium vel / hefda eg þad og þat giort. eda suo til sett. sem eg villde þad færi / suo villda eg giarna deygia / Med huilykre hugsan suikium vier sialfa oss / þuiat huersu leingi sem daudinn tefur / þa haufum vier æ iafnann nockud o giort.

J annare grein / setur Eccle: hier

tuennar epter lickingar/ vm Fiska/ og
Fugla/ þui þad er/ suo hattad med oss/
sem med þeim/ þui ad nær Fiskarner leita
sier fædu af aunglinum/ þa eru þeir
tekner/ Suo lika Fuglarner/ nær þr leita
sinnar fædu/ þa verda þr ok teckner/
þat geingur oss og suo/ þui þa vier ætlū
oss ad vera i farsælliguztu lifi/ nær vier
erum med gledskap/ og lifum epter vorum
eigin vilia/ kiemur daudinn hastarliga/ og
fangar oss þa vier taukum oss sydzt vara.

Suo geck þat Konginum af Babilon
þa hann giordi eitt mikid gesta Bod/ og
med sinne dramsemi vanheidradi Gud/ var
hann þa saumu nott i burt teckinn. Da-
nielis. v.

Suo geck þat og þeim o gudliga
Haaman. af hueriū vier lesum i Bokinne
Hester vii. sem sialfur var heingdur J
galga er hann liet byggia sinum o vin sem
hiet Mardocheus.

Suo geck þat og þeim rlika sem
Lucas

Lucas skripar vm i xii. huer ed sagdi/
Eg vil eta og drecka og giora mig gladan.
Enn Gud sagdi til hans / o Þu enn heim-
ski mann/ aa þessari nott skal þinn Sal
þra þier tackazt.
Suo lijka seiger og Christus i þeire
dæmi saugu. Math. xxiiii. vm þann
vonda þienara / huer i sins Herra þra ve-
reu. tok ad sla sijna samlags þiona. Enn
Christus sagdi. ad hans Herra mun koma a
þeim deigi sem hann vonar eigi. og i sun-
dur partar han og setur hans hlut skipte med
hræsnurum þar er vera mun Þop og tan-
na gnistran.
Og hinn heilagi Pall. seiger .i. Tes-
salo: v. þier vited ad sa hinn mykli da-
gur Drottins. mun koma sem þioþur vm
nott ect.
Þar þyrer / aþ þui nu ad vort
liiþ er o vist og er sem hangandi i veyku
þrædi. a minner oss Christus Math. xxv.
Vakit / þui at þier vited ecki dag edur
stund a huert ad manzins Son mun koma.

Og Lucas skrifar xxi. Enn var=
id ydur ad yduart hiarta þyngizt eigi af=
ofati og ofdryckiu. og mz sorgum þessa=
rar Næringar. ad eigi komi þessi dagur
hastarliga yfer ydur ꝛc.

Psalm. lxxxix. Þat giorer þin
reide ad vier suo forgongum / og þiin
grimd ad vier fraurum suo hastarlega
burt.

Og Jacob iiii. Siaed nu til þier
sem seigid i dag elligar a morgun. munum
mier ganga / J þessa edur þa borg. og
vilium þar arid vm dueliazt og kaups=
skap fremia og a mining giora þier sem
þo eigi vited huad aa morgum skie mun ꝛc.

Enn ef nockur kann hier ad seigia
Eg em riikur / mecktugur og vngur / mier
er enn nogur time ad hugsa vm daudann /
Þar til suarar hinn heilagi Augustinus. og
seiger. Ef þu hrosar þier af þinu riike
dæmi / af þinum heidre / af þinu æt=
tirne oc vænleika / Skoda sialfann þig.


þui

Þui þu ert daudligur og skalt fara J Jaurdina etc. Tak þier til epter dæmis þa sem fyrer þier hafa verid/ iafn rijker / iafnu mektuger ok unger etc.

Huar er nu Keisare/ huar er nu Kongur/ huar er nu Haufdingi mektugur/ huar er Prydilig klædi / huar er skraut og skart/ Huar er of neytzla metnadar Huar er Sueina fiaulldi/ Huar er Leikur/ huar er Gledi/ huar er og sialf rædi.

Er ecki allt þetta dupt og aska/ Skoda þeira grafer/ vit til huort þu getur þeckt þa rijka fra þeim fatæku/ þa vænu fra þeim oprijdu/ husbondann fra þienaranum/ etc.

Þat fyrer minst þu þetta/ ad þu eigi upp hrokizt/ Hiedan kiemur sa forni siduane/ hia enum Egypthzkum/ ad i þeira rijkuligum gesta bodum/ skylldi nockur þienare ganga um kring i sam sæ tinu / med eina Daude manz likr eskiu af trie giorda/ og syndi ster hueriun/ sei

giandi / Skiemt þu þier heir vid / þui ad huilikur skalt þu verda epter daudann.

Med þad sydzta skal mann hugsa huernen hann heþur liþad þra sinne barn æsku og til ellidaga / ad mann kunne taka vara a þessum iiii. timum / Þyrst nadarinnar tima / þat er su stund sem mann heyrer Gudz ord / oc lærer þau sier til saluhialpar. Þar næst daudans tima / þui ad huer vel heþur liþad / hann ottazt ecki daudann.

Þridie er Domsins time / aa huerium Christur skilur goda þra voudum /

Þiorde er time eilyþs lyþs / a huerium vier skulum aller þa eilyþt lyþ / sem a Christum haþa truad /

Huad vier vilium vona vm þenna vorn Brodur ( eda Systur ) sem vier haþum nu heir greþtad. Huern vier vilium nu Gudi biiþala / og bidia sialþum oss Gud til hialpar seigiandi / Þad vor ꝛc.

Ende sem þyr seiger.

Finis.

# Fimta Predickan sem mann ma predicka yfer nokure kuinnu sem deyr af barnsæng / predickad af Docter: P: Pall:

Fyrst ste giord þacker giaurd til Folsins / Sidan gefi kuinnunne sinn lofligann vitnis burd med þessum hætti.

Þessi en ærliga dandi kuinna / er ein af systrum sællrar Rakelar hussfru Jacob. Huer ed deydi af barne / sem vier lesum i i. bok moysi. xxxv. Ok lika sem Rachel /burt for i Gudz otta/lika Suo giordi og þessi / So ad hennar husbondi i sinne sorg/ kann gledia sig þar af / ad hann veit hana sofa i Gudi.

Þramdeilis / þess hattar daudi kiemur þyrst / aþ vpp kuna syndinne / og er þad eirnn sierligur kross / ad kuinnurnar skulu med sorg og mædu þæda sin baurn / huer vort þyrstu modur eþu strax eptir brotid var vpp aa lagdur med þessum ordum.

**Eg vil til Skicka þier mycklar eymder / nær þu ert med barne / þu Skallt fæda þyn baurn med hrygd ok þinn vilie skal vera þynum manne vnder gefinn og hann skal vera þinn herra.**

Enn huersu stor sorg þessi er / þram yþer allar sorger / reyna allar kuinnur i sinum barnburdi / ok sierdeilis Rakel med

sinum systrum / Huer ecki alleina hafdi hrygd i sinne fædingu helldur og iafn vel misti þetta likamlegt lijf / suo sem þessi vor syster hefur nu giort / huerrar lijkama vier haufum nu hier grafid.

Hier vm talar eigi ad eins Christus / Joh: xvi. Þar hann framsetur eitt epter dæmi seigandi / kuinnan nær hunn fædir / hefur hun hrygd / þui ad hennar stund er komen. ect.

Helldur og langt fyrer Christz fædingu þeir heilugu spamenn Esaie ii. Capitulo.

Minar lendar eru fullar af hrygd / og armædi plagar mig sem þa konu / er skal fæda. Og i xxvi Capit / Lyka sem þungud kuinna. nær hun skal fæda þa hefur hun mikinn ecka / Hun kallar i sinne pijnu / So gar þat og so oss herra fyrer þinne a sionu. vier erum og þun-gader og haufum ecka Suo ad vier kun-num naumliga ad draga vorn anda. ect.

Suo og Jeremie iiii. Eg heyrda eina raust, Lijka sem fædandi kuinnu / og hrygd

Og hrygd suo sem kuinnu nær hun fyrst fædir. og Zions dottur kallandi raust. huer ed grætur. Slaandi vt sinum haundum seiguandi / Oui. Eg fyrir ferst so nær. &c. Og i viii. Capitel / Hrygd hun plagar mig. sem þa kuinnu. er varla getur fædt.

Þar fyrer / vilium vier fyrst sam harma þeire sem fæder / oc grata mannligann veykleika / sem kiemur af vpp runa syndinne þar næst vilium vier aller i voninne vænta vorar endur lausnar / Rom: viii. Allar skepnur syta / ok vænta vorar endurlausnar.

Med ed sydzta skulu allar Gud hrægddar kuinnur / i þui litkre neyd og hacka / hugga sig med þessum ens heilaga P. ordum. i Timo. ii. Kuinnan mun frelsazt fyrer synn barn burd. ef hun blyfur staudig i Trunne. Elskunne / helganinne. hoguærdinne &c.
Af huertum ordum. vier lærum fyrst truna.

Þar

þat næst a haupt truarinnar. sem er kiær=
leiki/ helgan og hoguærd.

Med Þat sydzta. sierdeilis a haup=
tur og embætti kuinnunar. sem er ad þæ=
da baurn i heiminn. huert kall hun hefur
af Gudi. huort helldur hun deyr af þæ=
dingunne edur eigi / Þui at þessa heims
lijf er þui lijkt sem þad Skrifast af
Jesus Syrach xiiii. Capittel Allt holld
slitnar sem blædi. nær þad verdur gamallt/
og eins sem grœner kuister aa trie. Sumer
vaxa vpp enn sumer falla af.

Suo er þad hattad med oss. Sum=
er fædazt til. enn sumer deyia burt zct.

Witid þat fyrer Gudhræddar kui=
nnur yduart embætti vera ad fæda baurn.
og enn þo þier þar af skyldud deyia.þa
erud þier ysslar vottar i Gudz auglite.

Þui ad þær deyia ecki vegna siñar per=
sonu/ helldur vegna sins hionabaudz og
barn burdar. Suo sem Gudz orda þienar=
ar fyrer Gudz ord og sitt embætti.

Enn ef barnid fylger moduriñe i dauda=

num. og ecki þad Gudi büþalad i modur kuide vonū vier ad moderin verdi holpin þyrer truna i þessare sine piinu/ og barnid þylgie modurinne til eilyþs lyþs.

Þui ad þat er ecki eitt ord o maugu-ligt þyrer Gudi. Suo er og ecki helldur þetta o mauguligt. sem Christur seiger. Leyþid sma baurnunum til min ad koma/ þui at þuilikra er himna riike/ huort helldur kan deyia i modur kuide eda þædazt kan/ Og moderin heþur Gudz ord þyrer sier ad hun verdur hialpleg.

Eg villde kuinnunar i sinum barn burdi. snert sinum hiartans augum/ þra þessari likamlegri kuaul / til þeirar andligu þædingar i huere þær eru Gudi þæddar i skirnenni og haþa þar i medtekid/ syndanna þyrer geþning/ og eru var-dueittar þra diauþlinum/ Suo sem S. Johannes seiger/ i. Johannes v. vter vitum. ad aller sem þædder eru aþ Gudi syngazt ecki. Þat er ad hans synd reick-

nazt

nazt ecki synd þyrer Gudi.

Helldur sa aþ Gudi er þæddur. vardueitter sig og hinn vondi mun eigi snerta hann/ vier vitum þad vier erum aþ Gudi/ og þat allur heimurinn er skickadur i vondu/ enn vier vitum þad Gudz sonur er kominn/ og heþur geþid oss þat sinne. ad vier kennum þan sem sannarligur er og erum J hinum sanna-rliga hans syne Jhesu Christo/ Amen.

# Sietta predikan sem man ma perdika yfer bar-ne / predikad af D: P: Pal:

Fyrst þacka sem fyr seiger.

Enn þo ad suo mikill kiærleiki for-elldranna / sie til barnana /at þiau kunna ecki annas en harma i þes-

ra

ra dauda / þui ad barn eign er ſu en meſta Gudz blezan i hiona bandinu / huar fi-rer ad þar er eingin natturlegur kiærleike i þeim Forelldum / ſem miſþoknazt barna fioldinn / þui þeir ſkilia ecki Gudz godar gafur / og meina ad hiona bandit ſie meir ſkickad fyrer vel lyſt / enn ad vpp fæda baurn i Gudz otta / Enn reittir aſtudliger forelldrar / þeir ſkilia barn fialdann ad vera þa yppurſtu Gudz gafu og blezan / þui kunna þeir ei annars enn ſyrgia nær þeira baurn deyia / og þo þeim leyfizt ad ſyrgia nokud / þo eiga þeir ad lata ſig hugga / fyrer þeſſar epter fylgiandi greiner.

Fyrſt / ad þau miſſa ecki þeirrar nadar ſem þau hafa med tekid i ſkirnenne / þui ad þau hafa ecki ſaurgat ſig / med vondum verkum / huar fyrer ad ecki er efandi þeira ſalu hialp / af þui þeira er Himna Rike.

I annare grein / þui ad þau eru frialſud af þeire almenniligu bauluan / ſem

Suo

Suo heiter / fyrer eirn mann kom syndin i heiminn / og fyrer syndina daudinn / hui vt af Adams baurnum eru þau ordin gudz baurn.

I þridiu grein / af þui ad hinn mesti partur af Gudz vt vauldum / eru vng baurn / huad ad Christur biuisar seigiandi / þad er míns faudurs vilie ad einginn af þeim fortapist sem a mig trua / Enn huer þ nen sina baurnē kūna ad trua a Christū vil eg nu ecki mikit ūtala / þo stuttliga seigi eg / ad huer se hellzt ad dirfizt til / at vti lykia baurnin af þui fyrer heitt (Huer se truer og verdur skirdur skal holpin verda) hafi hū sialfur þann haska / Eg vil þau ecki vti lykia / þui eg veit þad Gud talþur er allz mectugur / og giorer ecki siinar giorder og ei opinberar siin fyrer heit / eptir vorre holldligre skynsemi.

I fiordu grein / hui ad baurnin sku lu med full ordnum likama / vpp risa aa

dome

doms deigt/og sam vagna med sinum For=
elldrum/ og lofa Gud ad eilifu/ Hier
vm ef azt ecki kristinna manna saufmudur/
þui þetta er allra sannazt ꝛc. Huat. Fyrer
ad Forelldrarner eiga ad læra þetta/ og min=
ka sina sorg med þessari andlegri hugan ꝛc.
Framdeilis vil eg hier til setia ii. spurningar
oss til lærdoms.

Fyrst/ huat fyrer baurnen skulu sy=
kiazt og deyia/ fyst þau hafa ecki syngad.
Suar/ þau hafa liika vel annarlegar syn=
der/ af huerium ad kemur sott og daudi.

Annur spurning/ hui baurnen sku=
lu fædazt/ fyst þau eiga suo snarlega ad
deyia/ Suar:

Enn þo ad bædi kranckleike og dau=
di barnanna kome af eirne vpp sprettu/
sem er vpp runa synd/og enn þo ad mann
kunni myklar gatur hier vm ad hafa/
þo hefur Gud hia sier marga hluti leynda
sem oss

sem oss eru nu enn o vitanliger. Huar fyrer vier eigum meir ad þacka Gudi fyrer þa sem leingi lifa / enn ad vndra mikid ad vm stutta lyfdaga barnana / Þetta sie stuttliga sagt til huggunar forelldrum þessa barns / Hier med þat og oss alla Gudi byfalandi.

Amen.



# Hier epter fylger oraciur sem lesazt a sunnu daugū hatidum og helgum daugum i kring vm arid.

## Sunnu dagin fyrstann / i adventu.



Eyr Drottinn vier bidium / vpp vek þitt velldi / og kom / ad vier mættum med þinne verndan / frialsazt fra þeim haskum sem yfer oss byggia / fyrer vorar synder / og vier mættum med þine lausn verda hialpleger / Þu sem lifer og rijker med Gudi Faudur / i einingu heilags anda / einn Gud vm allar allder allda / Amen

## Annañ sunnu dag / i aduē:

HEyr Drottinn / vpp vek vor hiortu ad til reida veg þins einka sonar / at vier mættum af hiarta þier þiena / huert ad hreinsad var / med hans til kuomu / huer ad med þier lifer og ryker / i einingu heilags anda / einn Gud vm allar allder allda. Amen.

## Þridia Sunnu dag.

Heyr

HEyr Drottinn vier bidium/ beyg thu eyra þitt til vora bæna/ og lys myrkur vors hiarta/ med villan þinar nadar/ Þu sem lifer og ryker med Gudi Fauður i eininngu heilags etc.

# Fiorda Sunnu dag.

HEyr Drottinn/ vpp vek þitt velldi/ og kom/ og hialp oss med þinum mikla krapti/ ad þyn yfirbæriileg millde/ vilkder af þinne nadar hialp/ fram knyia þat sem vorar synder oss hindra/ Þu sem lifer og ryker etc.

# Jola natt i Kristz messu:

HEyr Gud/ som lietzt þessa helguztu nott byrtazt med saunnu liossins skine/ vier bydium/ ad þess sama liossens heimugligleika/ sem vier med kennuzt hier a Jordu/ mættum vier þa saumu liossins gledi aa himnum fullkomlega nyta/

ta / Huer ad med þier lifer og ryker / J einingu Heilags anda / eirn Gud vm allar allder og ad eilyfu / Amen.

# J Annare messu.

HErr Almattugur Gud / vier biddm gef oss sem yfer lyster, eirum med nyiu liose þins ords / sem mandom hefur a sig teckid / ad þad megi lysazt J voru verki / sem fyrer truna skin i hiartanu / fyrer þann sama þinn son voru Herra Jhesum Christum / Sem med þier lifer og ryker. med Gudi Fadur. J einingu Helags anda / eirn Gud vm allar allder allda / Amen.

# Jola dag til hamessu.

HErr almattugur eilifur Gud vier bidium / vnn þu ad þins einka sonar likamlega nyia fæding mætti oss frelsa / sem þann gamla þrældom helldur


dur

dur vnder syndarinnar oki / fyrer þan sama þin son vorn Herra Jhesum Christum sem med þier lifer og riiker ec.

## Sãcte Steffanus dag /

HEyr Drottinn / gef oss ad epter fylgia þui / ad vier mættum læra ad elska og vora o vine / þui vier haulldum þess hatiid / sem bad fyrer sinum ofsaknar mannum / Vorn Herra Jhesum Christum / huern ad med þier lifer og riiker / med Gudi Faudur i einingu heilags Anda / einn Gud vm allar allder allda / Amen.

## Sancte Johannes dag.

HEyr Herra / vpp lys vilianlega þinn almuga / ad hann vpp lystur i lærdome Sancte Johannes Postula / og Gudz spialla manz / mættum koma til eilifra giafa fyrer vorn Herra Jhesum Christum þinn son / sem med Gudi Faudur lifer og riiker

